# Løg-Þingis
# Bookin,

Innehaldande þad, sem giørdist og fram-
foor fyrer Løg-Þingis-Rettinum
Anno 1782.



Prentud ad Hrappsey,
í því nýa konúngl. prívilegerada bókþrykkerie 1782,
af Magnúse Móberg.

## Num. I.

Anno 1782. þann 8da Júlii vid Öxará var af Hr. Vice Logmannenum **Stephane Thorarenssyne** sett eitt almenelegt Logþíng og til Logþínges Rettarens Þienustu utnefnder efterskrifader Logrettumenn, nefnelega:

Ur Arness Þínge.

Gunnar Hafliðason, Erikur Solmundsson og Gudmundur Hafliðason. Ur Kialarness Þínge.

Þorkiell Jónsson og Hallur Jónsson.

Þar næst lætur Hr. Vice-Logmadurenn innfæra i Logþínges Protocollen: Ad þá hann þann 4da þessa Mánadar, hafe komed híngad til Logþíngesens, hafe ecke fleire enn 3. Logrettumenn, aller úr Arness Sýslu, vered komner þángad, hvorsvegna Vice-Logmadurenn hvorke áleit naudsynlegt, og ecke helldur tilheirelegt, strax ad setia Logþínged, þar avngver Málspartar og avngver Embættesmenn vóru komner á Þínged, og lika so vantade þá enn nú 2. Logrettumenn úr Gullbríngu Sýslu, uppá þá vid Rescriptet af 30. April 1777 allranádugast fastsettu tolu af 5. Logrettumonnum, til ad beþiena Logþínges-Rettenum, og nú, þá Þínged var sett, vóru helldur ecke fleire Embættesmenn, edur Málspartar komner til Logþíngesins, enn alleina Sýsslumadur Gudmundur Ketilsson úr Myra Sýslu, sem kom híngad i Dag.

## Num. II.

Þann 9da Júlii settest Hr. Vice-Logmadur Stephan Thorarensson i Logrettu, mætte so Hreppstióre i Andakyl innann Borgarfiardar Sýslu Jón Þoroddsson og framlagde eina Logþíngs-Rettar Stefnu af 16. Aprilis næstl. under Hende og Signete Hr. Vice-Logmanns S. Thorarenssonar, hvarmed Hreppstióranner i Borgar Hrepp stefnast til ad mæta her fyrer Logþínges-Rettenum i Ar, og á-

þeira þar ſamt ſvara til þeirra af Hreppſtiórum i Andakyl giørande Adfinningum og Procedeur i einne Søk riſande utaſ Framfære Omagans Solveigar Magnúsdotter. Syſſlumadur Sr. Gudmundur Ketilsſon ſteſneſt og ſo til ad forſvara ſinn aſſagda Hierads-Dóm i þeſſu mále ad Eſkiuholte þann 10da December. 1781. ſo vel ſem adrar þar ad lutande Embættes Adgiørder, hvorutvegge bæde Máls-Sækendunner i Herade og Dómarenn tilþeinkter ad ſvara Sektum og Málskoſtnade til Hreppſtiora i Andakyl, med vidara ſem ſama Løgþinges-Steſna med ſier ber upplesenn not. Lit. A. Þvi næſt framlagde hann Herads Proces og Dóm i þeſſu Mále geingenn ad Eſkiuholte þañ 10. December. 1781 af Syſſlumanne Gudmunde Ketilsſyne, i hvørs Slútníngu Borgar Hreppur frí kienneſt frá ad ala enn fyrer Omaganum Solveigu Magnúsdottur med vidara, ſem ſame Dómur medſærer upplesenn not. lit. B. Enn nú framlagde hañ eitt Innlegg under ſinu Nafne af 8da hujus, ſem er hauns Paaſtand og Irretteſetelſe mót Hreppſtiorum i Borgar Hrepp og Syſſlumanne G. Ketilsſyne, begerande i Proces umkoſtnad 10. Rdr. med vídara ſem þad medſærer, uppleſed not. lit. C. Vidara ſegeſt Jón Þordsſon ecke haſa ad framfæra i Søkenne, enn refererar ſig alleina til ſins Innleggs. Syſſlumadur Sr. G. Ketilsſon mæter uppá egenn og Hreppſtiora i Borgar Hrepp, þeirra vegna, eſter framviſadre Fullmagt af Dato 12ta Junii næſtl. ſem upplesenn not. lit. D. Framlagde hann ſo eitt Innlegg af Dags Dato, ſem er hauns Forſvar mót Steſnu Søkunum i þeſſu Mále, hennar 1a. 2um. 3ia. og 4da. Poſtum, uppleſed not. lit. E. Vidara uppáſtendur Syſſlumadurenn munnlega, ad innfæreſt til upplyſingar þeim 3ia Steſnupoſte um Náunga framfære Omagans Solveigar, ad þá Søkeñ var utagerud fyrer Herads Rettenum og allareidu byriad ad færa Dóm til Protocols, framkom einn af Borgar Hrepps Hreppſtiorum fyrer Rettenn med þad Spursmál, hvort nú være offeint ad accordera Forlik i Søkenne, ef ſeingeſt, hvar til ſvaradeſt Nei, og ſtrax um hæl var byriad ad tala um Forlík, og þad tilboded af Borgar Hrepps Hreppſtiorum med þvi móte ad Andakyll tæke þá á móte Omaganum, enn Syſſlumadurenn giørde ſier allt møgulegt Omak fyrer, ad utvega Náunga framfære þad ſliótaſta ſte kynne, og ef þad ei ſeingeſt, ſkylldu báder Hreppan-

Hreppanner framveiges stoda Kerlinguna ad jøfnude, villdu Andakyls Hreppstiórar þetta Forlik ei antaka, einkum vegna þess, þeir søgdu ei munde tiá fkemur ad leita henne Náúnga framfæres; Her til svarade Actor i Søkenne Jón Þoroddsson, ad hann, þá um þetta Forlik hafe vered talad á Eskiuholts Þinge, hafe svarad, ad hann ecke þekte so til Ættar Omagans Solveigar, ad hañ giæte leitad henne framfæres hiá Náúngum. Annad Innlegg framlagde Sýsslumadurenn af Dags Dato, sínum Dóme til forsvars, upplesed not. lit. F. Vídara uppástendur Sýsslumadurenn G. Ketilsson, ad þad i Herads-Processen innsfærda Skrif Sýsslumanns Jóns Eggertssonar antakest ei, sem neitt afgiørande, uppá Andakyls Hreppstiora sídu, þar hann sie ei stefndur til þad sama ad forsvara. Vídara søgdust Partanner ei hafa ad framfæra, under endelegann Løgþinges Dóm.

## Num. III.

Þann 10da. Júlii settest i Løgrettu Hr. Løgmadur Biørn Marcússon, mætte so fyrer Løgþinges-Rettenum Hospitalshalldarenn Mr. Paull Jónsson og framlagde Løgdagslegging af Dato 16da Júlii 1781. til Sysslumannsens i Westmannaeyum Sigurdar Sigurdssonar sem Dómara, og Einars Jónssonar á Búastødum sem Sakar Adila, samt annara Vidkomenda i Omaga Søk Ragnhilldar Jónsdottur, ad mæta her i Rettenum efter þeirre ádur vid Løgþinges-Rettenn anhængig giørdre Stefnu af 10da August. 1780. sem er ad finna i næstl. Ars Alþingesbok under Num 11. Løgdagsleggingen er øllum Vidkomendum avglyst, upplesenn og uppáskrifud under sømu litera sem Stefnann. Þvi næst framlagde Mr. Paull Proces og Dóm i þessu Omaga Mále af 27. Júnii 1780. geingeñ ad Hvítingum á Westmannaeyum af Sýsslumañe Sigurde Sigurdssyne i hvors Slútningu Omagenn Ragnhilldur Jónsdotter er dæmd til ad flitiast á Sydu Sveit innann Skaftafells Sýsslu Vesturparts, med vídara sem same Dómur medfærer upplesenn not. lit. B. Aungver af þeim stefndu Málspørtum mæta og eingenn her nálægur veit, ad þeir sieu enn nú á Løgþinged komner, er þo Søkenn útsett til þess næstkomande 18da þessa Mánadar, þá hún skal aftur fyrertakast og i henne endelega dæmast.

 Num.

## Num. IV.

Sama dag var af Vice-Løgmanne Stephane Thorarensøyne affagdur efterfilgiande Dómur i Omaga Søk Solveigar Magnúsdottur.

Historia þeirrar hier fyrer Logþinges-Rettenn af Hreppstiórunum i Andakyl innann Borgarfiardar Sýsslu, innstefndu Sakar er þesse: Efter ad Borgar Hrepps Hreppstiorar innann Myra Sýsslu, efter þeirra hiá Sýsslumanne **Gudmunde Ketilssyne** utverkudu Skickunum under 1ta. og 15da. Octobr. aflidens Ars, tvisvar sinnum hafdu flutt eirn 81. Ara gamlann Omaga, ad nafne **Solveigu Magnusdottur**, fra Borgar Hrepp inn á Andakyls Hrepp, hvar þeir uppástódu ad þesse **Solveig** ætte ad ollu ad vera Sveitlæg og underhalidast, enn Andakyls Hreppstiorar þar á móte meintu þennann Flutning uppá Andakyls Hrepp ad vera óloglegann, og þar fyrer ogso tvisvar fluttu ómagann tilbaka, til Borgar Hrepps; Hafa þesser sidstnefnda Hrepps Hreppstiórar, under 23. Novembr. sama Ars, stefnt Andakyls Hreppstiorum, til ad mæta á Eskiuholts Þinge iñañ Myra Sýsslu þann 10da Decembr. næst efter, til ad heyra þar uppá þavg Vitne og Skilrike, sem þeir villdu færa um Omagans **Solveigar** Sveitar Tilkall til Andakyls Hrepps, og þar efter ad heyra i þeirre Søk endelegann Dóm, sem þann sama dag af Sýsslumanne **Gudmunde Ketilssyne** var affagdur soleides: **Ad hann aldeiles friikienner Borgar Hrepp, fyrer ad ala nockra onn fyrer nefndum Omaga** Solveigu, **enn Hreppstiorar þessa Hrepps skule einasta skylder til ad ridia henne af sier a Andakyls Hrepp.** Þessum Dóme hafa nú Andakyls Hreppstiorar innstefnt her fyrer Logþinges-Rettenn med eirnre Logþinges-Rettar Stefnu af 15da Aprilis þessa Ars, hvorre þeir sidann fyrer sama Rette hafa framfylgt vid Hreppstiorann **Jon Þoroddsson**, sem uppá sín, og

Med-

Med=Hreppstiora Vegna, hefur mætt hier i Rettenum, og i Innlegge af 8da þessa Mánadar, efter þeirre utteknu Løgþinges-Rettar Stefnu, giort sitt Paastand og Jrettesettelse mót þeim i Heradе geingna Dóm og Proces, i tillite til hvors hann hefur áklært efterfilgiande Posta. 1mo.) Ad Andakyls Hreppstiorum hafe vered stefnt til Eskiuholts Hierads Þíngs med 14. daga stefnufreste, þar þeir þó búed hafe i ødru Logdæme, enn Þínged var hallded og meina þvi, ad þeir efter N. L. 1.4.9. hafe átt ad hafa 2ia Mánada Stefnufrest, iafnvel þó Sýsslumadurenn hafe álited þann þeim gefna 14. daga lánga frest, fyrer løglegann, i einu þar um afsøgdu Interlocutorio. 2do.) Hafe Borgar Hrepps Hreppstiorar eingenn løglig Vitne fært um Omagans **Solveigar** Sveitar Tilkall til Andakyls, uppá hvor, þeir þó hafe stefnt til ad heyra. 3tio.) Hafe Borgar Hrepps Hreppstiorar, i þeirra i Herads Processen innfærdu Skrifum, vænst þess, ad **Solveig** ætte vel efnuga Náúnga i ødrum Sveitum, hiá hverium henne þó ecke hafe vered leitad framfæres, hvad Andakyls Hreppstiorar þó meina hafe átt ad skie, ádur enn hún hefde vered dæmd uppá Andakyls edur nockurn annann Hrepp. 4to.) Hafe Sýsslumadur **Gudmundur Ketilsson** vered ordenn interesseradur i þessu Mále, sem sá er ádur var búenn ad utgefa Skickaner i þvi, um ad flitia **Solveigu** á Andakyl, og hafe þessvegna, efter Andakyls Hreppstiora Meining, ecke mátt dæma þari edur yfer þessum sínum ádur utgefnum Skickunum, hvad hann þó avungvu ad sídur, á mote þeirra Exception og Proteste, hafe giort, og endelega 5to.) hafe Sýsslumadurenn dæmt **Solveigu** ad vera riett flutta á Andakyls Hrepp, enn fríteked Borgar Hrepp fyrer ad ala onn fyrer henne, jafnvel þó þeir meine þad aldeiles óbevísad, ad hún sie fædd, edur hafe vered sin fyrstu 3. alldurs Ar i Andakyls Hrepp, enn þar á móte tilstaded og játad, ad **Solveig** i samfleitt 78 Ar, hafe uppalest, unned og búed

og til sidst ordeinn Omage i Borgar Hrepp. Vegna alls þessa hafa Andakyls Hreppstiorar vid **Jon Þoroddsson** i ádur greindu Innlegge her fyrer Rette uppáltaded: Ad Herads-Dómur Syslumannsens **Gudmundar Ketilssonar** mætte verda aldeiles upphafenn, og Borgar Hreppur tilfundenn ad behallda oftnefndre **Solveigu Magnusdottur**, samt ad Borgar Hrepps Hreppstiorar tildæmest ad betala Andakyls Hreppstiorum, fyrer ordsakada Mædu og uppákostnad, 10 Rdr. i Processt umkostningar, og endelega Syslumadur **Gudmundur Ketilsson** fyrer sinn afsagda Herads Dóm, til þeirra somu, nockud toluverdt. Þar þesse Sok af Citanterne i Herade edur Borgar Hrepps Hreppstiórum er soleides underbúenn, ad hún ad so stoddu ecke endelega getur afgiorst, edur af þessum Logþinges-Rette uppádæmst, hvort Andakyls Hreppur ad aungvu, nockru edur ollu leite, á ad underhallda þá 81. Ara gomlu **Solveigu Magnusdottur**, so falla þær af Andakyls Hreppstiorum giordu og her ad ofann under No. I. og 4. anfærdu Exceptioner móte Herads Dómnum, af sier siálfum burtu, hvors vegna þesse Rettur ecke helldur hrærer vid ad underssækia þeirra Gyldugleika, edur pad sem Syslumadur **Gudmundur Ketilsson** hefur tilfært þeim á móte i sinu Innlegge fyrer Logþinges-Rettenn af 9da þessa Mánadar. Einasta tilkiemur Rettenum ad vísa, hvors vegna Hofud-Spursmáled i þessare Sok, edur hvort Omagenn **Solveig Magnusdotter** á ad underhalldast af Andakyls Hrepp edur ey, ad so vornu Mále, ecke endelega kann ad uppádæmast og afgiorast; þvi so víst sem þad er, og so efalaust sem adskiliannlegre stader i Vorrar Logbokar Framfærslubálke, sier i lage hanns 9de. Capitule og byriun þess 7da. giora þad; ad þeir Omagar ecke skule dæmast til framfæres á Hreppana, sem kunna ad eiga so nákomna velmeigande Náunga; sem efter Logunum eru skylder

til

til ad underhallda þá, so víst flytur það og naudsynlega þaraf, ad það verdur ad gieta álitest afgiort, og alt so ad bevísast, ad soddan Náúngar ecke sieu til, ef ein Sveit skal dæmast skyldug til ad underhallda eirn Omaga, og ad soddan Bevís tilkome Nátturlega þeim, edur þeirre Sveit ad færa, sem vill lietta einum Omaga af sier, syner bæde Framfærslubálks 2. Capitule, og líka so má það ráda af Húsaga Forordningarennar 34. Art. Ad þeim Hrepp i hvorium eirn er ordenn ad Omaga, tilkemur ad hiálpa Honum til síns Lífs Uppheldes, og yfer allt fylger þetta af þeirre almennelegu Reglu i øllum Rettargángs Søkum, ad Sækianda nefnelega uppáliggur ad bevísa það hañ uppástendur. Nú finnast i þeim ad Eskiuholte þann 10da Decembr. næstlidens Ars, geingna Procesś, mørg Spor til þess ad **Solveig Magnusdotter** meige eiga ríka Náúnga: Soleides hafa Borgar Hrepps Hreppstiorar siálfer i sínu i Herads Processen innfærdu Skrife, af 15da Septembr. 1781. utþryckelega sagt: Ad Omagenu **Solveig** ætte i ødrum Sveitum vel efnuga Náúnga: Soleides vísar og Skrif Sýsslumañsens **Jons Eggertssonar** af 5ta. Octobr. 1781. innfært i sama Procesś, ad Borgar Hrepps Hreppstiorar hafa meint hann ad vera eirn af **Solveigar** Náúngum, líka sem og Velnefndur Sýsslumann, máske i þvi tillite, eimi sinne siest ad hafa tillagt **Solveigu** 1. Rdr. sama Skrif gefur og anledning til ad trúa, ad **Solveig** eige Sonarborn, sem máske kynnu ad styrkia hana, enn allt þetta finnst i Processenum hverge upplyst, og ecke eitt ord i honum um, ad Borgar Hrepps Hreppstiorar nockurt sinn hafe vidleitast, ad gánga fyrer Enda um Náúnga framfære **Solveigar**, iá, sú Ettartala hennar, sem ráda má af Sýsslumanns **Jons Eggertssonar** áminnsta Skrife, ad Borgar Hrepps Hreppstiorar einhvorntíma hafe hast, finnst ei helldur innfærd i Processen, enn sióur bei hann

B med

med sier, ad Borgar Hrepps Hreppstiorar hafe leitast vid ad fá þessa Ættartölu upplysta, edur atteserada, annadhvort af Kirkiubokum, edur af einhvorium ættfródum monnum. Vel hefur Sýsslumadur **Gudmundur Ketilsson** bæde i sínu Innlegge her fyrer Rettenn, og líka so munnlega uppástaded, ad hann optar enn einu sinne, forgefens hafe vered búenn ad reina til ad utvega **Solveigu** Náúnga framfære, enn þar Processen eckert ber med sier þar um, er syner, ad þetta uppá ordentlegann og loglegann Máta hafe reint vered, so kann þesse Rettur ecke ad jálíta þetta Sýsslumannsens Paastand, sem nockurt loglegt edur afgiørande Beviis um, ad **Solveig** ecke kunne fá, edur tilkoma framfære hiá Náúngum. Hvad þad og áhrærer, sem fyrrnefndur Sýsslumadur hefur uppástaded, ad Andakyls Hreppstiorum á Eskiuholts Þínge hafe vered tilboded Forlik i þessare Sok, upp á þann máta, ad þeir þá strax skyldu taka á móte **Solveigu** á Andakyls Hrepp, enn Sýsslumadurenn lofade þar á mote enn nú frekar ad reina til, hvort Náúnga framfære ecke kynne ad fást, og hafe Andakyls Hreppstiorar þar til svarad, ad þad ecke munde tiá, fremur ad gánga efter þessare Náúnga Stod, hvar af Sýsslumadurenn vill inferera, ad þad hafe vered álited, afgiort, og af Andakyls Hreppstiorum accepterad, ad Náúnga framfæres ecke være ad vænta; Enn bæde syner Herads Processen lángt annad, þar Andakyls Hreppstiorar i sínu Innlegge fyrer Herads Rettenn finnast ad hafa uppástaded, ad **Solveigu** ætte ad utvegast framfære hiá hennar Náúngum, og lika so hefur **Jon Þorodsson** hier fyrer Rettenum ecke viliad vidkannast, ad hann á Eskiuholts Þinge hafe svarad, ad þad ecke munde hiálpa ad leita Náúnga framfæres, helldur alleina sagt, ad hann ecke þeckte hennar Náúnga, og hafe þvi neitad ad leita **Solveigu** framfæres hiá þeim: Yfer allt er og þessu á Eskiuholts Þinge giorda tilbode soleides vared, ad þad

ecke

ecke þar hefde átt ad þurfa ad gioraſt, efter ad Sokenn vár komenn i Proceſs, helldur áttu, efter áduꝛſkrifudu, Borgar Hrepps Hreppſtiorar ad vera búner ad gánga fyrer Endа á þeſſu Náúnga framfære, ádur enn Sokenn kom i Proceſs, hvad ef ſked hefde, hefde líklega Andakyls Hreppſtiorum kunnad ad ſparaſt, þad ſem þeſſe Proceſs nú kann ad hafa koſtad þá. Þar ſoleides Solveig Magnusdotter ecke álitiſt ad hafa átt ad dæmaſt uppá Andakyl, medann þad ecke var afgiørt, hvort hún ecke kunne edur átte ad underhalldaſt af ſínum Náúngum, þo þad enn hefde kunnad ad anſiáſt fyrer bevíſad, ad Solveig, ad frágeingnum hennar Náúngum, hefde kunnad ad eiga nockurt Sveitar Tilkall til Andakyls; So ſyneſt ad ſo ſtøddu ecke þorf ad underſækia þá Diſpute Málspartanna, viðvikiande þeim 5ta Stefnupoſte, hvort þad nefnelega ſie bevíſad, ad Solveig eige nockurt Sveitar Tilkall, til Andakyls Hrepps, alleina vill Rettuienn ſtuttlega nefna þad, ad Solveig þo i þad hædſta efter Herads Proceſſenum ecke getur átt meira Sveitar Tilkall til Andakyls enn fyrer ſín 3. fyrſtu Alldurs Ar, ſem hún líklega ad ſlutta, hefur vered i Andakyl, enn ſídann alla hennar lavngu æfe i Borgar Hrepp, og þo er þeirra 2ia manna Vitnesburdur óſvarenn, ſem á Eſkiholts Þínge þo ecke hafa ſagt annad enn þad, ad þeir alldrei hafe heirt Efa á, ad Solveig hafe ſín 3. fyrſtu Alldurs Ar vered i Andakyl, líka ſem þad er og ein Forſomun Borgar Hrepps Hreppſtiora, ad þeir menn, ſem nefnd 2. Vitne i Proceſſenum hafa ſagt, ad tvíllauſt mundu vita, ad Solveig ſín fyrſtu 3 Alldurs Ar hefde vered i Andakyl, ecke hafa vered afheirder þar um fyrer Rettenum. Þad ſem Syſſlumadur Gudmundur Ketilsſon og ſo i ſínu Innlegge her fyrer Rettenn anfærer þvi til forſvars, ad nefnd 2. Vitne ey hafe vered i Eyd tekenn, ad hann nefnelega á móte N. L. 1. 14. 4. 5. ecke hafe álited ſig ad eiga þad ad giora, kann ey helldur ad áſtaſt fyrer gyldugt, þar þeſſ-

er Articular tala alleina um Málsparta Eyd, enn ecke um Vitna, sem eiga ad stadfesta sinn Vitnesburd med Eyde, ef hann annars fyrer Rette á ad álítast fyrer fullkomenn, og soleides giorer ecke helldur þessara 2ia Manna ósvarenn Vitnesburdur, sem Borgar Hrepps Hreppstiorar hafa fært, meira enn gánga upp ámóte þeim líka so osvornu Vitnesburdar Sedlum, sem Andakyls Hreppstiorar hafa framfært frá Elldstu Monnum i Andakyls Sveit, um ad þeir ecke tilvisse, ad Solveig Magnusdotter hafe þar nockurn tíma vered. I tillite til alls þess ofannskrifada dæmest þvi fyrer Rett: Sa af Sysslumannenum Gudmunde Ketilssyne a Eskiuholts Þijnge innann Myra Sysslu þann 10. Decembr. 1781 afsagde Herads-Domur, ahrærande Omagann Solveigu Magnusdottur, a ecke ad koma Andakyls Hrepp, edur þess Hrepps Hreppstiorum innann Borgarfiardar Sysslu, til Skada edur præjudice i nockurn maata, enn Borgar Hrepps Hreppstiorar eiga, ef þeir vilia, ridia nefndre Solveigu af Borgar Hrepp, fyrst løglega ad leita henne framfæres hia hennar, af þeim i Processenum umgetnu vel efnugu Naaungum. I Procefs Kostnad betala Borgar Hrepps Hreppstiorar, sem fyrst þafa orsakad og byriad þennann Procefs, eirn fyrer alla og aller fyrer eirn, til Hreppstioranna i Andakyl 3 Rdr. Courant, sem eiga ad vera lokner innann 6. Vikna efter ad þesse Løgþijnges Domur er Hreppstiorunum i Borgar Hrepp løglega byrtur, under Execution efter Løgunum.

## Num. V.

Þann 11ta Júlii ad Rettenum settum var ad forlage Hr. Stifts-Amtmanns THODALS upplesed efterfilgiande Document.

Und-

Under 8de. April indeværende Aar, har det Kongl. Rente-Kammer tilkiendegivet følgende *Hans Kongl. Majeſtets* allernaadigſte Reſolution, ſaa lydende:

Hans Majeſtet *vil med allernaadigſt Velbehag anſee, at Torv-Jord ſöges og anvendes til Brændſel over alt i Island, hvor den kand erholdes, og ikke för bleven brugt dertil, ligeſom det og tillades, at en paſſelig Belönning; en gang for alle, maae tilſiges enhver blandt Almuen ſammeſtædt, ſom opdager brugbart Torv, og förer den i Brug til Brændſel i Husholdningen, hvor den för dertil ikke har været brugt, ſaaleedes, at Giödning derved ſpares, hvilken Premie eller Belönning nærmere forſlaaes af vedkommende Syſſelmand, hvor over Stift-Amtmanden meddeeler ſin Eragtning, efter hvert Tilfældes Omſtændigheder.* Hvilken *Hans Majeſtets* allernaadigſte Reſolution herved til alle vedkommendes Efterretning og Opmuntring kundgiöres

Ligeleedes har *Hans Majeſtet* allernaadigſt bifaldet de af Vice Laugmand *Thorarenſen* giorte Forſlag, om Premier for Myrers Udtapning i Island, iſær neml.

(*a*) At der udloves 5. forſkiællige Premier ſaaleedes:

10 Rdr. til den ſom udgraver og i Henſigt til Græsvæxten forbedrer det ſtörſte Stykke Myr.

8 Rdr. for den, ſom maatte komme denne nærmeſt.

6 Rdr. for den der var der næſt efter.

4 Rdr. for den der efter, og

2 Rdr. for den mindſte.

Hvor af de 2. ſidſte beſtæmmes egentlig for dem, ſom udgrave og forbedre en Myr i Udmarken, men de 3. förſte alleene for dem, ſom forbedre og foröge deres Tune ved en Myrs Udtapning.

(*b*) At deſſe Premier ikke kunde æſkes förend efter 3 Aar



fra

fra Sommeren 1780 af at regne (det er at forstaae, om den da har været begyndt) siden Nötten af en Myrs Udtapning, formedelst Græsvæxtens Forbedring, vel ikke för kand komme til at vise sig.

(*c*) At der kand ventes uddeelte gratis nogle Stykker af de til desse Grövters Gravning brugelige Jærn Spader, som kunne tiene til Modell at giöre efter for dem af Indbyggerne, som kunne have Löst til dette Arbeide.

(*d*) At der i de indgivende Premie Æskninger og Attester om Myre Udtapningen meldes om:

1. Hvor stort det udtappede Stykke Myr er.
2. Hvor mange Alen Gröfter der baade rundt omkring, og paa samme, ere gravne.
3. At Vandet ved desse Gröfter er bortleedet af Myren, og at den alt saa er bleven tørrere end den för var.
4. At de Myrer som enten i eller tedt ved Tunet ere udtappede, tillige siden ere blevne giödede, hvortil för bör bruges Aske og Hestemóg, end Koemóg, allerhældst i Fórstningen, medens Mossen ikke er borte.
5. Hvor meget Græsvæxten paa den udtappede Myr fra det forrige er bleven forbedret, eller hvor meget den haver tiltaget. Den 25. Junii 1782

L. A. Thodal.

## Num. VI.

Sama dag settest i Løgþinges-Rettenn Hr. Løgmadur B. Marcússon, mætte so Sýsslumadurenn Sr. G. Ketilsson, sem Actor uppá Gudbrandar Eirikssonar vegna, efter Hr. Løgmanns B. Marcússonar Ordre af 10. hujus sem upplesnar not. lit. A. Framlagde so Sýsslumadurenn G. Ketilsson eina Løgþinges-Rettar Stefnu af Dato 25ta Octobr. 1781. under Hende og Signete Hr. Løgmanns B. Marcússonar, hvar med Sýsslumadur Lydur Gudmundsson og Klaustur-

urhalldarenn Sigurdur Olafsson stefnest til ad forsvara þann af Klausturhalldara Sigurde affagda og af Gudbrande Erikssyne uppáklagada Herads Dóm af Dato 4. Septembr. 1781, á Kirkiubæar Klaustre i einne Utbyggingar Søk. Gísle Þorsteinsson stefnest og, sem Høfudpartur til ad forsvara sína Utbyggingu, sem Stefnann vídara medfærer upplesenn not. lit. B. Enn nú framlagde hañ Procesś og Dóm geingenn af Klausturhalldara Sigurde Olafssyne á Kirkiubæar Klaustre þann 18. Júnii og 4. Septembr. 1781. i hvørs Slútningu Gudbrandur Eriksson er dæmdur til ad burtflitia sig og allt sitt bú af hálflendu Jardarennar Geirlands; sem hann hefur ábúed, i næstu fardøgum, med vídara sem same Dómur innehelldur upplesenn not. lit. C. Avnguer af þeim stefndu Málsþortum mæta her fyrer Løgþinges-Rettenum, og eingenn af nálægum vita ad þeir sieu til Løgþingesens komner, er þvi þesse Søk utsett til þess 17da þessa Mánadar til vídara Afgiørelse.

## Num. VII.

Sama dag var til Stadar i Løgþinges-Rettenum Hr. Vice-Løgmadur Thorarensson og liet efterspyria hvørt nockrer Málspartar úr Nordur og Vestur Løgdæmenu, sem Saker hefdu ad kiæra, villdu her mæta, og framgaf sig eingenn.

## Num. VIII.

Þann 12ta Júlii settest i Løgþinges-Rettenn Hr. Løgmadur B. Marcússon mætte so Sýsslumadur Jón Eggertsson og framlagde eina Løgþinges-Rettar-Stefnu under Hende og Signete Hr. Løgmanns B. Marcússonar, hvarmed Sýsslumadur Jón Eggertsson stefnest til ad forsvara sinn Herads-Dóm geingeñ ad Leyrá þann 22. Júnii næstlidna i Tugthúss Søk Jóns Þorsteinssonar, sem og stefnest til ad framkoma med sitt Forsvar i Søkenne, sem Stefnann vídara útvíssar upplesenn not. Lit. A. Var so framlagdur Herads Procesś og Domur affagdur ad Leyrá i Leyrár Sveit þann 22. Júnii næstl. i hvørs Slútníngu Jón Þorsteinsson er dæmdur ad erfida i þvi Islendska Tugthúse i 6. Ar, sem hann vídar medfærer upplesenn not. lit. B. Sýsslumadur Jón Eggertsson uppástendur sins Dóms Confirmation. Jón Þorsteinsson er her til Stadar fyrer

Rett

Rettenum, enn uppá hanns vegna mæter Sýsslumadur Gudmundur Ketilsson sem Defensor efter Hr. Løgmanns Marcússonar Ordre af 11ta hujus sem upplesnar not. Lit. C. Sýsslumadur G. Ketilsson uppástendur, ad efter þvi ad siá er af Processenum, ad Jón Þorsteinsson hafe helldur forverrast enn forbetrast í sinne fyrre Tugthúss veru, syneft ecke Herads Dómsens Hensigt ad kuña ad nást vid hanns tvøfalldt lánga veru þar, hvar fyrer hann óskar ad tidenn mætte forkortast til eins edur i þad hædsta 3ia Ara, helldst þar Jón nú fyrer Rettenum lofar bót og betran. Vidara søgdust Partanner ei hafa ad framfæra under endelegann Dóm.

## Num. IX.

Sama dag framlagde Sýsslumadur Jón Eggertsson Løgþíngs-Rettar Stefnu af dato 11ta hujus under Hende og Signete Hr. Løgmanns B. Marcússonar hvarmed Sýsslumadur Jón Eggertsson stefnest til ad forsvara sinn affagda Herads Dóm á Heines Þinge þann 2. Júlii næstlidna i Tugthúss Søk Gudrunar Narfadottur, er og so stefnest til ad framkoma med sitt Forsvar i þessu mále, sem Stefnann vidara med sier ber uppleseñ not. lit. A. Þar næst framlagde hann einn Herads Procéss og Dóm geingenn ad Heinese þann 2. Júlii næstlidna, i hvørs Slútníngu Gudrun Narfadotter er dæmd ad erfida i þvi Islendska Tugthúse næstu 3. Ar, med vidara sem same Procéss og Dómur innehelldur upplesenn not. lit. B. Uppá Gudrunar Narfadottur vegna mæter sem Defensor Sýsslumadur Gudmundur Ketilsson efter Hr. Løgmanns Marcússonar Ordre af 11ta hujus, sem upplesnar not. lit. C. Gudrun Narfadotter er her til stadar fyrer Rettenum, og segest mest af sinum únga alldre vera uppalenn hiá Jóne Þorvardssyne á Innstavoge, allt til þess 15da Ars, þá hún var confirmerud, hann hafe og tilboded Hreppstiórum Sveitarennar ad hallda hana framvæiges og útsvara nockru tillage til Hreppsens, ef hann mætte vera nidursetu frí, hvad Hreppstiórar ei hafe anteked, helldur teked sig þadann burt, hvar fyrer hún sídann hafe mátt fara mann frá manne, án þess ad fá neinar Skyldur edur neitt á sig, imislega medhøndlud nú i 4 Ar, hvort hennar udsigende Hr. Sýsslumadur Jón Eggertsson tilstendur. Sýsslumadur G. Ketilsson uppástendur ad

Gudrun

Gudrun frikienneſt frá Tugthúſs Erfide, i tillite, ad ei ſie tilreint vid hana efter Húsaga Forordningunne og ad hún hafe burttekenn vered frá Jóne Þorvardsſyne, hvar hún hafde gott upphellde. Sýsſlumadur Jón Eggertsſon uppáſtendur Herads Dómſens Confirmation. Vidara höfdu ei Málspartar ad framfæra under endelegann Logþinges Dóm.

## Num. X.

Sama efter Middag var af Hr. Logmanne B. Marcúsſyne aſſagdar efterfilgiande Dómſlútningar. 1.) J Tugthúſs Sök Jóns Þorſteinsſonar.

Herads-Domur Sysſlumannſens Jóns Eggertsſonar afſagdur ad Leyrœ þann næſtlidna 22. Junii, hvarinne Jón Þorſteinsſon fyrer Lausgangarie og adra Oknitte dæmeſt til ad erfida i þvi Jslendſka Tugthwſe œ Arnarhole i næſtu 6. Ar, er af þeſſum Logþijnges-Rette confirmeradur.

2.) J Tugthúſs Sök Gudrunar Narfadottur.

Hreppſtiorar á Akraneſe hafa begert Þing og Rettargáng af Sýsſlumannenum Jone Eggertsſyne til ad fá unglingeinn Gudrunu Narfadottur 19. vetra gamla fyrer lete og ódygd dæmda i Tugthúſed á Arnarhóle, hvad Sýsſlumadurenn hefur og ſo efter þeim láted og dæmt hana þann 2ann þeſſa Júlii Mánadar á Heines Þinge til ad erfida i Tugthúſenu i næſtu 3 Ar, jafnvel þó eckert ſie i þeim, þar i geingnum Proceſs bevíſad, ad tilreint hafe af Hreppſtiorum vered, ad ſetia hana nidur i þá viſt, hvar henne med ſkickannlegre Stiórnſeme, fötum og fæde kynne borged vera, helldur ofurlyſer hún fyrer þeſſum Logþinges-Rette, hvad Sýsſlumadurenn Jon og ſo tilſtendur, ad hún 15 vetra gomul hafe af Hreppſtiorunum tekenn vered úr viſt frá ſkickannlegum Bónda Jone Þorvards ſyne, hvors uppaluingur hún til þeſs tíma vered hafde, af

 þeirre

þeirre ordsok, ad hann villde nockra Hugnun af hans utsvare til fátækra i Sveitenne, med henne sá meiga, Síðann hefur hún ad mestu á hrakníage vered i Sveitenne utann 1. Ar hiá **Petre Jonssyne** á Holme og annad hiá **Gudfinnu Gudlaugsdottur** á Reiner, hvar hún þo eingenn fot á sig feingid hafe utann eina lasna Skirtu hiá **Gudfinnu**, fyrre enn ad Hreppstiorar hafa giort þá anstalt, ad Sveitenn skaffade henne nockud af fatnade ádur enn hún, efter geingnum Dóme i Tugthúsed færdest. Hennar Procurator Sýsslumadur **Gudmundur Ketilsson** hefur her fyrer Rette uppástaded ad þesse Unglingur, ad so voxnu mále, ætte ecke i Tugthúsed ad dæmast, helldur i skickannlega vist setiast i hennar Sveit, sierdeiles hiá þeim Bónda sem hana uppfostrad hefde, og vel med hana hondslad, med vídara, sem hann, henne til forsvars fyrer þessum Logþinges-Rette framfært hefur. Hversvegna efter soddann fyrerfundnu Asigkomulage dæmest og álitast: **Sa Tugthwss-Domur sem Sysslumadur** Jón Eggertsson **þann 2. Julii næstl. a Heynes Þijnge geinged hefur yfer Unglingnum** Gudrunu Narfadottur, **er af þessum Logþijnges Rette fraafallenn og upphafenn, skal hwn þvi flitiast aftur til sinnar Sveitar, sem er a Akranese, og þar af Hreppstiorum nidursetiast i vist hiaa einhvorium skickannlegum Bonda, hvar henne sie reksamlega til vinnu hallded, efter hennar burdum, enn faae þar hiaa forsvarannlegann fatnad og fæde, samt sie vanenn til skickannlegrar breitne og Sidferdes, efter Hwsaga Forordningunne af 3ia Junii 1746. 11. Art.** Þennann Logþinges-Dóm lætur Sýsslumadurenn Jón Hreppstiorum á Akranese auglýsa, og tilhelldur þeim efter honum ad lifa.

Num. XI.

Þann

Þann 13. Júlii s. m. setteſt Hr. Løgmadurenn B. Marcúsſon i Løgþinges-Rettenn, og mætte ſó Sýsſlumadurenn i Rangarvalla Sýsſlu Sr. Jón Jónsſon og framlagde eina Løgþinges-Rettar Stefnu under Hende og Signete Hr. Løgmanns B. Marcúsſonar af 12ta hujus, hvarmed Velnefndur Sýsſlumann Jónsſon ſtefnest til ad forsvara ſinn og Meddómsmanna þann 29. Maij næſtlidna fyrer Herads-Rette ad Holte aſſagda Dóm i Þiófnadar Søk Arna Sigurdsſonar, ſem og ſtefneſt til ad framfæra ſitt Forsvar i þesſu Þiófnadar Mále, ſem ſama Stefna vídar medfærer uppleſen not. lit. A. Vídara framlagde Sýsſlumadurenn Jón Procesſ og Dóm i þesſare Søk geingenn ad Holte under Ejafiøllum þann 29. Maij næſtlidna, i hvørs Slútningu Delinqventen Arne Sigurdsſon er fyrer i annad ſinn begeingenn Smáþiófnad dæmdur ad kagſtrikiaſt og erfida i því Jslendſka Tugthúſe i 2. Ar, med vídara ſem ſame Procesſ og Dómur medfærer uppleſenn not. lit. B. Sýsſlumadur Jón mæter uppá ſin og Meddómsmanna vegna, Delinqventen er og ſo hier nálægur áſamt hanns tilſkickadur Talsmadur Sýsſlumadur Gudmundur Ketilsſon, og medkenner Delinqventen þad allt ſatt ad vera, ſem i Procesſen er innfært um hanns Þiófnad, enn ſeger þar hiá ad Húngur og Hallære haſe ſig þar til dreiged. Sýsſlumadur Jón uppáſteudur ſins og Meddómsmanna Dóms Confirmation, declarerar þad hiá orſøkena, hvarfyrer hann haſe ei dæmt Delinqventen til ad erfida leingur i Tugthúſenu enn 2. Ar, neſnelega ad hann (Sýsſlumadurenn) haſe álited, ad Húngur og vidvarande Hallære haſe Delinqventen til þesſa Þiófnadar dreiged; Sídann haſe Delinqventen vered á Sýsſlumannſens Heimile, og Sýsſlumadurenn i egen Perſonu erfared, ad Arne aldeiles ecke af Náttúru er hneigdur til Þiófnadar, þar hann haſe rigtuglega til ſkila halldед øllu ſem fyrer ſier funded haſe ætu og bætu, og jaſnvel Smámunum i Jørdu fundnum. Sýsſlumadur Gudmundur Ketilsſon ſem Delinqventens Svaramadur uppáſteudur ad af Procesſenum ſie auðſiáannlegt, þesſe Þiófnadur ſie ſkedur i ſtærſtu lífsnaudſýn og þar fyrer uppáſteudur, ad Arne mætte aldeiles frikiennaſt fyrer øllu Straffe i Følge Jónsbókar Þiófabálks 1. Cap. hvar þesſe tilfallne Caſus ſie útþrickelega cencureradur item N. L. 6. B. 17. Cap. 27. Art. Vídara ſøgduſt Málspartar ei



hafa

hafa ad framfara under endelegann Dóm, sem sama dag var af Hr. Løgmanns B. Marcússyne afsagdur soleides:

Þad er vilinglega medgeinged af Delinqventenum Arna Sigurdssyne, so vel fyrer Herads sem þessum Logþinges-Rette, ad hann á næstlidnu Hauste 1781. hafe stoled eirnre á úr Saudfe Bóndans Olafs Arnasonar á Berianese og hana skored, enn ádurenn hún var sodenn, fannst Kroppurenn, Ullenn og Skinned af henne á Ystabæle, hvar Delinqventen hafde sitt adsetur, hvoria á hann sagde þá, ad Gudmundur Isleiksson á Stórumork, hefde selt sier. Eirnenn hefur nefndur Delinqvent tilstaded ad hann skommu fyrer Veturnætur 1781 hafe leinelega teked 1. Húdarhest fyrer ofann Minneborg, hvorn Jon Sigurdsson hefur sier med Ede helgad; þennann Hest hefur Delinqventen Arne selt Jone nockrum Nicolaussyne fyrer 17. merkur Mørs, nockud af Kiøte og Vadmálspeisu brúkada. Ared 1778. hefur þesse same Arne dæmdur vered á Stórolfshvole fyrer Stulld á eirnre á, ásamt Jone Sigurdssyne, hvar fyrer þeir voru þá dæmder ad útstanda Refsing i Fángelse og betala Igields og Tvigieldsbætur, so sem fyrer ringe tyverie i fyrsta sinne. Nú framkemur fyrer þennann Rett so vel af Sýsslumannsens Jons Jonssonar siálfs sem Delinqventens Talsmanns Sýsslumanns G. Ketilssonar álfu sú afsokun fyrer þennann Delinqvent, ad þad hann nú stoled hafe, sie sked i Húngurs neid, þar hann sokum yfergángande stórs biargrædesleises i hanns Sveit hafe hvorge kunnad vist edur biorg ad fá, jafnvel þott hann ansiedsur sie fyrer gódann Erfidara, þægann og Meinlausann i Umgeingne, hvorn Vitnesburd Sýsslumadurenn Jon honum og so fyrer þessum Logþinges-Rette gefed hefur sidann til hanns Heimiles kom i Vetur; Jon Nicolausson sem keifte þann stolna Hest af Delinqventenum vitnar og so, ad hann þá

hafe

hafe bæde klædlaus og húngradur vered. Þvi, ad ollu þessu mále med þess Kringumstædum, Delinqventenum til vægdar, vel yfervegudu dæmest og álíktast: Hierads-Domur Sysslumannsens Jóns Jónssonar afsagdur a Holts Herads Þijnge þañ 20. Maii næstlideñ, hvariñe *Delinqventen* Arne Sigurdsson, fyrer Smaþiofnad i annad sinn, er dæmdur ad kagstrikiast og erfida i þvi Islendska Tugthuse i næstu 2 Ar, er af þessum Logþijnges-Rette stadfestur og confirmeradur.

## Num. XII.

Þann 15. Júlii s. m. settest i Logrettu Hr. Vice-Logmann Thorarensson, mætte so Sysslumadur Jón Eggertsson sem Actor efter Hr. Logmanns B. Marcússonar Ordre af 13da hujus sem upplesnar not. lit. A. Framlagde hann so sina Logþinges-Rettar Stefnu af 13. hujus under Hende Hr. Vice-Logmanns Thorarenssonar i Tugthúss Sok Sigridar Jónsdóttur af Isafiardar Sýsslu, sem stefnest til ad forsvara sitt begeinged 5ta Frillulífesbrot og þar fyrer Dóm lida, so stefnest og Sysslumadur Sr. Jón Arnórsson og hanns 8. Meddómsmenn, ad forsvara sinn og þeirra yfer nefndre Sigride afsagda Herads-Dóm þann 21. Maii næstlidna, sem Stefnann vidar útvísar upplesenn not. lit. B. Delinqventinden er her til Stadar i Rettenum ásamt mæter hennar beskickadur Defensor Sysslumadurenn Sigurdur Sigurdsson, var so framlagdur Process og Dómur i þessu mále, afsagdur þann 21. Maii ad Reykiarfyrde, i hvors Slútníngu Sigridur Jónsdótter er, fyrer 5ta Frillulífesbrot dæmd til ad erfida i þvi Islendska Tugthúse sina Lífstid, sem same Dómur vidar med sier ber upplesenn not. lit. C. Actor uppástendur ad Delinqventinden dæmest i þad Danska Tugthús efter Forordníngunne af 3. Júnii 1746. Defensor meinar og uppástendur ad Delinqventinden, jafnvel þo i Herads-Processenum sie álitenn fyrer ad hafa med fullu Ráde og Forstande játad þesse af henne drigd 5 Frillulífesbrot, meige samt nockur vægd siást i tillite til hennar Einfelldne, sem siáanleg

ste af Processenum þar af ad hún seige sig ad hafa meint, ad hennar seinaste Barnsfader Gudmundur Gudmundsson munde hana til Egta taka, jafnvel þó hún þar hiá hafe játad, ad hann hvørke fyrr nie sidar hafe lofad sier þvi. Herads Dómarenn Sýsslumadur Jón Arnórsson uppástendur sinn Dóm Confirmeradann og framleggur þar hiá einn af hønum affagdann Dóm þann 30. Martii 1781. um Delinqventindens 4da Frillulífisbrot sem upplesenn not. lit. D. Enn nú framlagde Sýsslumadur Arnórsson Attest Prófastsens Sira Gudløgs Sveins sonar dat. 8, hujus, hvar af siest, ad hún fyrer sitt 4da Frillulífesbrot hefur rímt Isafiardar Sýsslu, enn þángad sidann i 5ta sinne bliett, aftur flutt, med vidøra sem þad medfører uppleſed not. lit. E. Delinqventinden játar þad satt vera, sem Heradsprocessen um hennar tvø sídustu Frillulífesbrot anfører. Sýsslumadur Arnórsson uppástendur til sídst þvi helldur sinn Dóm Confirmeradann, sem þesse Sigridur bæde til ute- og inne-verka sie miked dugleg og kunne þvi, þvi Islendska Tugthúse ad brúkast til Nota. Vídara høfdu ei Partanner af framfæra under endelegann Løgþinges-Dom, sem af Hr. Vice-Løgmanne S. Thórarenssyne var sama dag affagdur soleides.

Þo Forordningen af 3ia Júnii 1746. um Hiónabands-Saker og Lauslæte m. v. hier i Landed inngefenn, i þeim 10. Art. seige, ad þeir sem i 5ta sinn fremie Frillulífe, skule vægdarlaust dæmast og sendast til Tugthússens i þeim Kongl. Residents Stad Kaupenhøfn, þá verdur þesse Postur i nefndre Forordning, vid þad her i Lande sidann innrettada Tugthús, fyrer so vidt ad ansiár, fyrer upphafenn, sem soddann Personur þar efter eiga ad dæmast i þetta, og ecke hitt Tugthús, hvad og enn frekar avglyser sú fyrer Danmork utgefna allranádugasta Forordníng af 19. Martii 1751. og sú fyrer Noreg um sama Efne af 26. April 1755. sem seigia, ad Kvenn-Persónur fyrer 3ia Frillulífesbrot skule dæmast i næsta Tugthús i 6. til 8. Ar, efter Kringumstædum; Þar er alt so eingenn Efe um, ad sú her fyrer Løgþinges-Rettenn innstefnda **Sigridur Jonsdottur** úr Isafiardar Sýsslu-

Sýsslu, sem opennber ordenn ad 5ta Frillulífesbrote, hvört hún bæde siálf medkenner, og hennar Prestes-Sedell fyrer þessum Rette framlagdur stadfester, so vel sem og sá Dómur sem Sýsslumadur **Jon Arnorsson** hefur framlagt, vid hvorn nefnd **Sigridur** fyrer sitt 4da brot er dæmd úr Vestfyrdínga Fiórdúnge, rettelega af Velnefndum Sýsslumanne er dæmd i þad Islendska Tugthús; Enn hvort hún á ad dæmast þángad uppá Lifstíd, er eitt annad Spursmál. Sú hier i upphafe áminnsta Forordning af 3. Június 1746 seiger ecke urþrickelega ad jafnvel Karlmanns Persónur skule fyrer 5ta Frillulífesbrot uppá Lífstíd dæmast i Tugthúsed, og þo syner bæde N. L. 6. 13. 9. og líka so nockrar Forordningar, ad Løgenn fyrer þess slags brot taka hardara á Karlmanns- enn Kvenn-Persónum. Þad her i Landed seinast innkomna Rescript af 9. Martii 1775. synest þar ad auke ad bera þad med sier, ad eingenn uppá Lífstíd skule dæmast i þad Islendska Tugthús, líka sem og ratio politica eins Tugthúss rædur þar frá. I tillite til þessa, og líka so þeirrar fyrer Noreg utgefnu Forordningar af 26. April 1755. dæmest þvi fyrer rett: *Delinqventinden* Sigridur Jónsdotter **a fyrer sitt Fimta sinn framed Frillulifesbrot, ad erfida i þvi Islendska Tugthwse i 8 Ar;** og soleides er sá af Sýsslumannenum **Jone Arnorssyne** ad Reykiafyrde þann 21. Maii sidstlidna affsagde Herads-Domur yfer nefndre **Sigride** af þessum Rette mitigeradur.

## Num. XIII.

Sama dag settest i Løgþinges-Rettenn Hr. Løgmadur B. Marcússon og framkom so Klavsturhalldarenn Sigurdur Olafsson til ad svara til þeirrar Stefnu sem her vid Løgþinges-Rettenn var anhængig giørd þann 11. hujus og sinst her ad framann anfærd under Num. 6. Sýsslumadurenn G. Ketilsson sem bestickadur

dur Actor uppá Gudbrands Erikssonar vegna lætur innfæra, ad þad Feiltagelse i Dato Stefnunnar, sem Hr. Løgmadur Marcússon lagfærde i Rettenum þann 11ta hujus laterar i einu Pennafeile i þeirre annare her fyrer Rettenn framløgdu Dómslútning i Søkenne under Hr. Klausturhalldara Sigurdar Olafssonar Hende og Signete. Klausturhalldarenn Sigurdur framlagde skriflega Begiering under Dags Dato ad Vitnaleidslu Acten af 24. og 28. Maii teken af Sýslumanne Lýd Gudmundssyne Søkenne vidkomande, verde upplesenn, hvør Begiering upplesenn not. lit. D. Enn Sýslumadur G. Ketilsson Consenterar ad nefndur Vitnaleidslu Act meige filgia Processenum, med þvi móte ad hann ecke antakest fyrer Bevís uppá undanngangande Dóm; var so same Vitnaleidslu Act uppáskrifadur og not. lit. E. Sýslumadur Ketilsson framlagde 3. Attest edur Vitnesburdar Sedla; þann fyrsta under Nafne Sýslumanns Lýds dat. 17. Novembr. 1768. annann under Nafne Klausturhalldarans Sigurdar Olafssonar af 24. Novembr. 1768 og þann þridia under Nafne Profastsens Sira Jóns Steingrímssonar af 23. Júnii næstlidna, øll þesse Attest eru um Gudbrands Erikssonar skickannlegt líf og lifnod, under sínum vissum Numeris upplesenn og uppáskrifud. Þvi næst var framløgd vidimerud Copia af Gudbrands Erikssonar Memorial til Hr. Amtmanns Stephanssonar dat. 24. Septembr. 1781. not. lit. F. Þar med fylgde Copia af Hr. Amtmanns Stephanssonar Resolution uppá nefndann Memorial, dat. 16. Octobr. 1781. not. lit. G. Vídara var produceradur einn Vitnaleidslu Act af 27. Júnii næstlidna tekenn af Sýslumanne Lýd Gudmundssyne, sem uppáskrifadur not. lit. H. Actor framleggur Innlegg under Nafne Gudbrands Erikssonar af 26. Júnii næstl. hvarinne hann begerer Klausturhalldaranns Sigurdar Olafssonar Dóm af 4da Septembr. 1781. upphafenn med vídara sem þad medfærer uppleséd not. lit. I. Enn nú framlagde Sýslumadur G. Ketilsson Innlegg af 14da hujus under sínu Nafne vidvikiande Gudbrands mædu og Omkostninger sem Gísle Þorsteinsson hafe hønum orsakad med vídara sem þad medfærer uppleséd not. lit. K. Innleggenu fylger Kostnadar Reikníngur uppá 10. Rdr. Specie under Gudbrands Erikssonar Nafne af Dags Dato upplesenn not. lit. L. Noch framlagde hann þriár qvitteringar

Gudbran=

Gudbrande gefnar under Nafne Gísla Þorsteinssonar fyrer afgialld hálfrar Jardarennar Geirlands, Sú fyrsta af 21. Septem. 1780. önnur af 24. Septembr. 1781. og sú þridia af 15. Júnii 1782. under sínum Num. upplesnar og uppáskrifadar. Klausturhalldarenn Sigurdur Olafsson framlagde Innlegg af Dags Dato under sínu Nafne, sem er hanns Paastand og Irettesættelse mót Gudbrande, samt forsvar hanns afsagda Herads-Dóme med vídara sem þad medfærer uppleséd not. lit. M. Enn nú framlagde hann Innlegg under Nafne Gísla Þorsteinssonar af 28. Júnii næstlidna, hvarinne hann uppástendur ad Gudbrandur dæmest frá Abud Geirlands med vídara sem þad med sier ber uppleseð not. lit. N. Sýsslumadur G. Ketilsson uppástendur ad Klausturhalldarenn Sigurdur Olafsson ansiáest tilbærelega fyrer sitt Innlegg efter Lögunum allt hvad ecke finnst grundad á Hierads Acterne af 18. Júnii og 4 Septembr. næstl. ár. Vídara søgdust Partanner ei hafa ad framfæra i Sókn edur Vörn under endelegann Lögþinges Dóm.

## Num. XIV.

Þann 17da Júlii s. m. settest í Rettenn Hr. Vice-Lögmadur S. Thorarensson mætte so Sýsslumadur Jón Eggertsson sem Actor mót Delinqventen Hannese Grimssyne efter Hr. Lögmanns B. Marcússonar Ordre af 16. hujus sem upplesnar not. lit. A. Framlagde so Actor eina Lögþinges-Rettar Stefnu under Hende og Signete Hr. Vice-Lögmanns Thorarenssonar af Dato 16. hujus, hvar med stefnest Delinqventen Hannes Grimsson til ad forsvara sína Þiófnadarsök, samt áheira og lída endelegann Dóm; So stefnest og Sýsslumadurenn i Snæfells Sýslu Sr. Jón Arnórsson og hanns 8. Meddómsmenn, þeirra yfer nefndum Delinqvent geingenn Herads-Dóm ad forsvara, sem Stefnann vídar útvísar upplesenn not. lit. B. Enn nú framlagde hann Proces og Dóm i þessare Sök afsagdann ad Sydre Gordum þann 2. Decembr. 1780. af Sýsslumanne Jóne Arnórssyne, i hvörs Slútníngu Delinqventen Hannes Grimsson er dæmdur fyrer medkiendann Þiófnad á 20. Rdr. Croner ad betala af þeim óframlögdu Peníngum i Igiæld 7 Rdr. 2. Mk. 2 Sk. og Tvigiæld 40. Rdr. Croner samt ad kagstrikiast og erfida i Járnum i þvi Islendska Tugthúse i 20 Ar, med

med vídara sem same Proces og Dómur medsærer, upplesenn not. lit. E. Actor uppástendur ad Delinqventen verde dæmdur i Kaupenhafnar Schlaverie. Sýsslumadur Jón Arnórsson framlagde Innlegg af Dags Dato, hvar hann ansærer ad Delinqventen hafe i Kaupstaduum druckenn stoled þessum Peningum efter hanns ísýsingu med vídar sem Innlegged med sier ber uppleseð not. lit. D. Delinqventen er her til Stadar fyrer Rettenum, enn hanns beordret Defensor Sýsslumadur Sr. Jón Jónsson framlagde Innlegg af Dags Dato, hvar inne hann uppástendur, ad Herads Dómurenn verde formildadur i henseende til hans Dryckiuskapar og Raserie, og hann einasta dæmest til þess Islendska Tugthúss i 8 Ar med vídara sem sama Innlegg medsærer uppleseð not. lit. E. Vídara. sogdust Málspartanner ecke hafa ad framsæra under endelegann Logþinges-Dóm, sem sama dag var af Hr. Vice-Logmanne S. Thorarenssyne afsagdur soleides:

Forordningen af 21. Maii 1751. sem inngefenn er her i Landed og publicerud i Alþíngesbókenne af 1752. uppáleggur ollum Dómurum útþryckelega og alvarlega, ad þar ecke i Delinqvent Sokum, sem áhræra Delinqventanna Líf, Æru og Velferd, meige efter þeirra siálfra eigenn Medkienningu strax affeigiast Domur yfer þeim, helldur skule fyrst þeirra Alldur m. v. upplýsast og bevísast; oll moguleg vitne og bevís um Giorningenn og hanns Krinaumstædur færast og útvegast, til þar efter ad fastsetia hanns Grader og Stærd, og þar ad auke allra þeirra Persóna Forklaring og vitne i Sokenne naudsýnlega afleggiast, sem Delinqventen i sinne medkrenningu angefur og nefner, sem þá er kunna ad hafa nockra vitund um hana, og þad jafnvel þo þær uppehallde sier under einnre annare Jurisdiction, og medan nockra af þessum Upplýsingum vantar, seiger Forordningenn, ad engen Dómur meige i nockrum soddann Delinqvent Sokum affeigiast; Enn finnest þær vid Yfer-Rettena ad vanta, skule soddann Sokum til frekare Ransoknar heimvísast. Nú sést i þeim ad Sydre Gordum i Snæfells Sýsslu d. 2. Decembr. 1780. yfer Þiofs Delinqventenum Hannese Grímssyne geingna Procesß og Dóm

Dóm: 1mo. Ad hanns Alldur er ecke upplystur. 2do Ad ad-skiliannlegra, edur nockra þeirra Underretting og Vitnesburdur ecke er utvegadur, sem Delinqventen hefur medkient sig ad hafa handlad vid, og feinged nockra af þeim af honum stolnu Peníngum; Sier i lage eru þad þesser Jon Jonsson á Laxholte og Jon Hallidason á Homluholti, hvorium bádum til samanns Delinqventen hefur angefed sig ad hafa feinged 4 Rdr. 2 Mk. enn sieſt þo ei af Processenum, hvort þesser Peningar, eins og nockrer af hinum stolnu, eru tilbaka leverader hvad þo hefde átt ad upplýsast i tillite til þeirra idæmdu Igiældsbóta. 3tio Eru þeirra tveggia manna Vitnesburdur, Sigurdar Oddssonar og Natanaels Helgasonar, sem i Processen eru innfærder, um þad, ad Delinqventen hafe handlad vid þá, og feinged þeim nockra af þeim af honum stolnu Peningum, ecke med Eyde stadfester, hvad þeir þo efter N. L. 1. 13. 8. hefde átt ad vera, og þad þvi helldur i þessare Delinqvent Sok, sem hún ad færdum og med Eyde stadfestum ollum þeim bevísingum, sem ádurnefnd allranádugasta Forordning uppábýdur, líklega ecke gylder um neitt minna, enn Delinqventens Æfelángt Erfide i Kaupennhavnar Schlaverie; Og endelega 4to hefur Underdómarenn Sysslumadur Jon Arnorsson, nú fyrst i sínu Innlegge til þessa Logþinges-Rettar, angiefed, ad Delinqventen fyrer Hierrads Þíngs Rettenum hafe lyst þvi, ad hann hafe vered druckenn, þegar hann stal Peningunum i Kaupstadnum, enn þar um finnst i Herads Processenum ecke eitt Ord, jafnvel þo þad naudsynlega efter nefndre Forordning og so hefde þurft ad upplýsast. Vegna þessa ádurgreinds kann þesse Delinqvent Sok i þetta sinn her ecke endelega ad uppákiennast, helldur dæmest i henne fyrer riett: Sokenn heimvísast til nyrrar og frekare upplysingar og Ransaks af Sysslumanne Jóne Arnórssyne i Snæfells Sysslu, efter Forordningunne af 21. Maii

D 2 1751.

1751. enn ad medann tilkemur Velnefndum Sysslumanne, ad láta *Delinqventen* Hannes Grimsson forsvarannlega vakta.

## Num. XV.

Sama dag kom fyrer Rettenn Sýsslumadurenn i Snæfells Sýsslu Sr. Jón Arnórsson og framlagde Hr. Lögmanns Biörns Marcússonar Ordre af 15da hujus, til ad agera uppá Prestsens Sira Jóns Thorgrímssonar vegna eina Sök, rísande utaf Hvalreka, þær upplesnar not. lit. A. Þar næst framlagde hann eina Lö.þinges-Rettar Stefnu af 28. Augusti 1781. under Hende og Signete Hr. Lögmanns Sveins Sölvasonar, hvarmed stefnest Sýsslumadurenn i Nordur Sýsslu Wigfús Jónsson og hanns Meddómsmenn til ad forsvara geingeñ Dóm ad Lióssavatne þann 21. og 22. Maii 1781. áhrærande Reka-Rettugheit Haals Kirkiu i Nattfaravíkum. Einnenn stefnest Proprietarius Lióssavatns Mr. Sigurdur Oddsson ad forsvara sína Action og Procedeur i Herade, med vídara sem sama Lögþinges Stefna utvísar, upplesenn not. lit. B. Stefnann er efter hennar uppáskrift, vidkomendum avglýst, enn þar þeir somu nú ecke innfunndu Sig vid Rettenn, vard i þessare Sök eckert vídara fyrerteked, helldur utsetst hún til þess 20. hujus ef má ske þeir innstefndu edur nockur þeirra vegna til þess tíma kynnu her ad mæta.

## Num. XVI.

Þann 18. Július afsagde Hr. Lögmadur B. Marcússon efterfilgiande Dómslútning i Utbyggingar Sök Gudbrands Erikssonar á Geirlande.

Asigkomulag þessarar Utbyggingar Sakar fyrerfinnst ad vera soleides: Forpagtare til þeirra so kolludu tveggia Kirkiubæar Klausturs Jarda Geirlands og Horgsdals og búande á hálfre Jordenne Geirlande **Gisle Þorsteinsson** hefur þann 30. Septem. 1780. utbygt sínum Sambýlesmanne á hinum parte Geirlands **Gudbrande Eirikssyne**, þeirrar orsakar vegna, ad hañ sókum fiolskyldu og Omaga fiollda þyrfte navdsynlega siálfur allrar Jard-

